Nytt

# Les=Riim,

sem kennir ad útreikna

Ársins adskiljanlegu Tídir,

samt

Túnglkomur

og annad hèradlútandi.

Samanskrifad af

O. Hjaltalin,

Distrikts-Kirurgus og konstit. Landphysikus.

Beitistødum, 1817.

Prentad á kostnad Rithøfundsins, af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.

# Til Lesarans.

Handa skilníngsbetri Löndum mínum hefir eg samanteckid þetta lítid Les-Rím; er þad ödrum eldri fullkomnara þarí: ad Túnglaskipti, útreiknud eptir því, ecki geta munad frá Almanökum meiru enn hærst 9 klukkustundum, en optast minna; einnig hefir eg í því keunt, med Reikníngi, ad finna Hátída-komur. Viþa eg til, ad námfúsum er

A 2 tídt

tídt ad læra eina kunnst, til ad geta fleytt sér í annari; mætti þá vel skje, ad einhverr, sem qver þetta kemur fyrir sjónir, kynni leidast til ad læra Reikníngslist, til þess ad geta hagnýtt sér Reglur þær, er í því finnast.

Nesi vid Seltjørn, Vale!
þann 1ta Maji 1817.

D. Hjaltalin.

# I. Kap.

# I. Kapituli.

## Um Arid yfir høfud.

Ar kallast tími sá, á hvørjum Jord vor endar eda fullkomnar eitt sinn hlaup sitt kríngum sólu; er tími þessi, eptir sem næst verdur komist, 365 dagar, 5 klukkustundir, 48 mínútur og 48 sekúndur, takmarkast hann því ecki af degi og nóttu.

Arid skiptist ýmislega:

1.) Í tilliti til lengdar sinnar; af því umhlaups-tími Jardar ecki takmarkast af

heilum aur dægrum, þá hafa menn ætlast svo til, ad þeir 5 tímar, 48 mín. 48 sek. sem umfram eru 365 daga, skyldu safnast til og gjöra heilann dag, þar betra þókti ad reikna med heilum dögum, og skyldi þessi aukadagur innsetjast 4da hvört ár; hefir ár þad 366 daga, og kallast Hlaupár, en hin 3 hafa einúngis 365, og nefnast almenn ár. Hvört þessara ára hefir inni ad halda 12 mánudi, er svo heita:

1.) Janúarius hefir 31 daga.
2.) Febrúarius — 28 —
3) Martius — 31 —
4.) Aprilis — 30 —
5.) Majus — 31 —

6.)

6.) Június hefir 30 daga.
7) Július — 31 —
8.) Augústus — 31 —
9.) September — 30 —
10.) Október — 31 —
11.) Nóvember — 30 —
12.) December — 31 —

Merk: Februarius hefir á almennum árum 28, en á Hlaupárum 29 daga.

II.) Skiptist Arid vegna misjafnrar byrjunar:

1.) J Calender- eda Almanaks-Ar, sem byrjar med Janúarió, skommu eptir Vetrar Sólstodur.

2) Í Kyrkju-ár, sem byrjar med Adventu, hérumbil 1 mánudi fyrri.

3.) Skiptist árid, hjá oss Islendingum, í 2 Missiri, eda Sumar og Vetur, og þar nærst í 12 Mánudi þritugnætta og 4 aukanætur, sem sídar segir.

## II. Kapituli.

### Um Kyrkju-ársins Tídir.

Þess er ad gæta, ad 7 fyrstu stafir í voru Stafrofi eru eignadir 7 vikudøgum, líka og, ad sérhvörr Almanaks-mánudur er látinn

inn byrja á einum þessara, og þaradauki hverjum mánadar degi ætladur viss stafur, svo ad, ef fyrsti dagur einhvörs mánadar hefir A, tileinkast honum B, 3ja C, 4da D, 5ta E, 6ta F, 7da G og þeim 8da aptur A, o. s. frv. Sá af þessum 7 bókstöfum, sem lendir á Sunnudegi árid um kring, kallast Sunnudaga Bókstafur; eru þeir 2 á Hlaupárum, og nær hinn fyrri ecki meir enn yfir 2 fyrstu mánudi ársins, en hinn sídari hina 10. Adgæt nú: ad í almennu ári eru vikur 52 og 1 dagur umfram; er af því audséð, ad árid endar á sama vikudag og þad byrjadi á, og því hlýtur annar Sunnudaga Bókstafur

að verða árið eptir, munar þetta þó um 2 staſi á Hlaupárum.

Merk: Sunnudaga Bókstafa umbreyting er, eptir Nýa Stýl, úti á 400 árum, kallaſt tími sá Lilii Øld, og endar hún þau rettu Aldamót; en rett Aldamót kallaſt þau, er 4 gánga upp í árstalið, t. d.: 1600, 2000, 2400, og svo frv.

Þegar þú villt nú finna, hvorr verða muni Sunnudaga Bókstafur ár hvort, þá brúka þeßa aðferð: Skipt árum liðnum af Lilii Øld með 28, geym leyfarnar; ſkipt ſiðan Lilii Aldar árum með 4, og það sem kémur í qvótann, legg til áðurtaldra leyfá, þartil ſkaltú léggia 1 fyrir þau ár Lilii Aldar, sem færri eru enn

100,

100, eckert fyri þau, sem færri eru enn 200, drag 1 frá fyrir árin, sem færri eru enn 300, og 2 frá fyrir árin innan 400, því ná eptirverandi tali, skiptú med 7, það sem eptir er, sýnir hér Sunnudaga Bók-staf, eptir hér settri Toblu; en gångi eckert af, er Sunnudaga Bókstafur B, sem í Teblu þeßari enga tolu hefir.

Merk: A Hlaupárum er sá fundi stafur hinn seinni, og skaltú taka þann nærsta fyrir ofan, og er þeßi sá fyrri Sunnudaga Bókstafur. Eu se, til dæmis, A, sá fundni stafur, verdur ad taka B til á Hlaupári.

# Tablan.

| | |
|---|---|
| A. 1 | 1647 er Lilii Aldar |
| G. 2 | 28) 47 (1 |
| F. 3 | 28 |
| E. 4 | 19 4 í 47 gjora 11 |
| D. 5 | lagdir til 11 |
| C. 6 | 30 |
| B. | Þar til 1 |
| | Þarf 7) 31 (4 |
| | 28 |

gánga af 3 — sem sýnir Sunnudaga Bókstaf F, árið 1647.

2að Dæmi:

```
1672   72 | 28
       56 |  2
       16
       18
       34
        1
    7) 35 (5
       35
       00
```

Því er B seinni, en C fyrri Sunnudaga Bókstafur, 1672.

3ja Dæmi:

```
1720   120 | 28
       112 |  4
         8
        30
     7) 38 (5
        35
         3
```

Því er F seinni, en G fyrri Sunnudaga Bókstafur, 1720.

4da Dæmi:

1800 200 | 28
196 | 7
4
50
54
þarfrá 1
7) 53 (7
49
4

Því er E Sunnu-daga Bókstafur 1800.

5ta Dæmi:

1831 231 | 28
224 | 8
7
57
64
1
7) 63 (9
63
00

Því er B Sunnu-daga Bókstafur 1831.

6ta Dæmi:

```
1901   301 | 28
       280 | 10
-----------
        21
        75
-----------
        96
Þarfrá   2
-----------
     7) 94 (13
        91
-----------
         3
```

Því er F Sunnudaga Bókstafur, 1901.

7da Dæmi:

```
1940   340 | 28
       336 | 12
-----------
         4
        85
-----------
        89
         2
-----------
     7) 87 (12
        84
-----------
         3
```

Því er F seinni, en G fyrri Sunnudaga Bókstafur, 1940.

Merk: Á þeim stöcku Aldamótum skal ecki vera nema 1 Sunnudaga Bókstafur; því svo er tilsett, ad þau skulu almenn Ár vera, en ecki Hlaupár; en þau stöcku Aldamót eru svo opt, sem 4 ecki geta gengid rett upp í 2 fyrstu tölustafi ártalsins, t. d.: 1700, 1800, 1900, 2100, o. s. frv. Hlaupár skal vera svo opt, sem 4 geta gengid rett upp í ár Lilii Aldar, t. d.: 12, 40, 80, 120, nema á þeim stöcku Aldamótum.

Ad fundnum Sunnudaga Bókstaf, skaltú géta vís ordid, á hvorn dag viku einhvorn vissann mánadardag ber, á þessa leid: vit þú nú fyrst hvört stafur af þeim 7, stendur á 1ta dag mánadar; þad lærir þú af Toblu þessari:

Janúa-

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Janúarii | 1ti | dagur | hefir | . | A. |
| Febrúarii | — | — | — | . | D. |
| Martii | — | — | — | . | D. |
| Aprilis | — | — | — | . | G. |
| Maji | — | — | — | . | B. |
| Júnii | — | — | — | . | E. |
| Júlii | — | — | — | . | G. |
| Augústi | — | — | — | . | C. |
| Septembris | — | — | — | . | F. |
| Októbris | — | — | — | . | A. |
| Nóvembris | — | — | — | . | D. |
| Decembris | — | — | — | . | F. |

Drag 7, svó opt sem þú gétur, frá þínum mánadar-degi, og geym það af-

gengur; en gángi eckert af, þá geym ena seinustu 7; byrja nú ad telja frá þínum mánadastaf eins marga stafi uppeptir og leifarnar vóru, en merk þann staf á hvörjum talan lendir, og far þá svo ad telja frá Sunnudaga Bókstaf ársins uppeptir vikudaga, og byrja á Sunnudag, til þess þú lendir á ádur umgetnum bókstaf, sem þá sýnir þér vikudag. Til dæm.: á hvörn dag viku fellur sá 6ti Febrúarii, þegar Sunnudaga Bókstafur er F? 6 taldir frá D lenda á B, þá tel eg Sunnudag á F, Mánadag á G, Þridjudag á A og Midvikudag á B, og því er 6ti Febr. á Midvikudag, þegar Sunnud. Bókst. er F.

A hvörn

A hvörn dag viku mun falla sá 21ti Júlii, þegar Sunnudaga Bókstafur er E? 7 í 21 hefir eg 3svar, og með því eckert gengur af, geymi eg þá seinustu 7, fer síðan að telja frá G og lendi á F, tel svo Sunnudag á E, og lendi við Mánadag á áðurnefndu F; og því er sá 21ti Júlii á Mánadag, þegar E er Sunnudaga Bókstafur.

Að svo töldu skal greina, hvörnin Kyrkju-Arsins sérlegu Tíma-skipti, Hátíðir, Helgi- og Merkis-dagar finnast.

Merk: Kýrkju-Arsins Hátíðir, Helgar og Messur, eru bædi hræranlegar og óhræranlegar.

legár. Hræranlegar kallast þær, sem ætíð falla á sama dag viku en ecki mánadar; þar á móti heita hinar óbræranlegar, sem árlega falla uppá viðann mánadardag en ecki viku.

## a.) Hræranlegar Hátídir og Helgidagar.

1.) Adventa eda Jólafasta, med hvorri Kyrkju-Arid byrjar, innfellur ætíd Sunnudag nærstann eptir Conrádsmeßu eda þann 26ta Nóvembr.

2.) Níuviknafasta; til ad finna hennar komu, brúkast þeßi adferd:

Auk ártal Krists med 1, skipt því sídan med 19, margfalda leifarnar med 11,

og

og sé sú útkomna summa stærri enn 34, þá drag 30 svo opt sem verdur frá henni, þó med þeim athuga, ad leifarnar verdi stærri enn 4, því annars skal halda þeim seinustu 34; drag nú þá útkomandi summu frá 34, en legg leifarnar til 18da Janúarii, sú útkomna summa sýnir Níuviknaföstu inngáng í Janúarió, sé hún minni enn 32, annars sýnir hún dag í Febr., þann útkomna dag skal halda Níuviknaföstu inngáng, ef hann er Sunnudagur, annars nærsta Sunnudag eptir, nema á Klaupárum; því þó svo beri vid, ad sá útkomni dagur lendi á Sunnudegi, skal þar ecki halda Níuviknaföstu, heldur nærsta

Sunnudag eptir; en falli úrkomandi dagur ecki á Sunnudag, þá fylgja Hlaupár somu reglu og almenn ár. Hér fylgja nú Dœmi uppá Niuviknaføstu-inngáng, árin 1786, 1795, 1815, 1818 og 1828:

1ta Dœmi:

1786<br>
1<br>
1787 | 19<br>
94<br>
1786<br>
1<br>
11<br>
11

Hjer skrifa eg fyrst ártal Krists, 1786, er eg eyk med 1, verdur 1787, hvorju eg skipti med 19, koma 94 í qvóta; 19sinnum 94 eru 1786, sem frádregnir 1787, láta eptir 1, hann margfaldadur med 11, verda 11, þeir frá 34 láta eptir 23, sem lagdir til 18da Jan., gjera 41, þar frá fyrir Jan. 31, verda eptir 10, sem sýna:

sýna: ad Níuviknafasta hafi kymid þann 10da Febr. 1786, eda næsta Sunnudag eptir.

2ad Dæmi:

| | | |
|---|---|---|
| 1795 | | Drag nú þá sídustu 20 |
| 1 | | frá 34, verda eptir 14, |
| 1796 | 19/94 | þeir lagdir til 18 gjora |
| 1786 | | 32, þar frá fyri Jan. |
| 10 | | 31, láta eptir 1, sem |
| 11 | | sýnir þér Níuvikna- |
| 30) 110 (3 | | føstu Inngáng þann |
| 90 | | 1ta dag Febrúarii árid |
| 20 | | 1795, med því þá er |

Sunnudagur.

3ja Dæmi:

1815
1
1816 | 19/95
1805
11
11
30) 121 (3
90
31

frá 34 láta eptir 3, þeir til 18, sýna að Níuviknafasta kom þ. 21ta Jan. 1815.

4da Dæmi.

1818
1
1819 | 19/95
1805
14
11
30) 154 (4
120
34

frá 34 láta eptir 0, og því kémur Níuviknafasta þann 18da Janúarii 1818.

Merk: J bádum þeßum seinustu dæmum mátti eg ecki draga 30 svo opt sem vard frá seinustu summu, því þá hefdu leifarnar ordid minni en 4.

5ta Dæmi:

| | |
|---|---|
| 1828 | |
| 1 | |
| 19) 1829 (96 | |
| 1824 | |
| 5 | |
| 11 | |
| 30) 55 (1 | |
| 30 | |
| 25 | |

Drag þá seinustu 25 frá 34, verda eptir 9, þeir lagdir til 18 gjöra 27, sem sýna þann 27da Jan.; en med því þá er Hlaup-ár, og sá 27di er Sunnudagur, skal Níuviknafasta ecki haldast þar, heldur viku seinna, nefnil.: 3ja Febr.

3.) Sjövíknafasta, sem almeñt kallast Lángafasta, kémur 2ur víkum seiña enn Níuvíknafasta.

4.) Maríu Boðunar-dagur er að sonnu, eptir boði Konúngs frá 26ta Okt. 1770, fluttur á 5ta Sunnudag í Föstu; en þótt þeßi helgidagur reglulega innfalli á 25ta Marts. var hann samt, þegar Páskar komu í nefndum mánudi, færdur á Laugardaginn fyrir Pálmasuñudag.

5.) Skírdagur innfellur Simtudaginn, og

6.) Frjádaguriñ Lángi Föstudaginn nærstann fyrir Páska.

7. Páskar, þeir finnast med soma móti og Níuviknafasta, og skal þad útkomna tal leggjast til 22ars Márz, skal þar halda Páska, sem tala sá lendir á, hvort Hlaupár er eda ecki, ellegar nærsta Sunnudag eptir.

1ta Dœmi:

| | |
|---|---|
| 1863 <br> 1 <br> 19) 1864 (98 <br> 1862 <br> 2 <br> 11 <br> 22 | Þeir seinustu 22 frá 34 láta eptir 12, þeir lagdir til 22ars Martii, gjöra 34, þar frá 31 fyrir Martium, láta eptir 3, sem sýna: ad Páskar komi 3ja Apr. |

1863, eda nærsta Sunnudag eptir.

2ad

2ad Dæmi:

```
     1870
        1
19) 1871 (98
    1862
    ----
        9
       11
30) 99 (3
    90
    --
     9
```

frá 34 láta eptir 25, þeir til 22ars Martii gjora 47, þar frá 31 fyrir Martium, sýna 16da Apr. eda næsta Sunnudag eptir.

3ia Dæmi:

```
     1920
        1
19) 1921 (101
    1919
    ----
        2
       11
       --
       22
```

frá 34 láta eptir 12, þeir lagdir til 22ars Martii, gjora 34, þar frá 31 láta eptir 3, sem sýna ad Páskar komi 3ja April eda næsta Sunnudag eptir.

8.) Róngsbænadagur er haldinn 4da Föstudag eptir Páska.

9) Uppstigníngardagur er ætíd 6ti Fimtudagur eptir Páska.

10) Hvítasunna finnst eins og Páskar, med því, ad leggja þad útkomna tal til 10da Maji, og yfirgángi þad 31, þá skal draga 31 frá, afgángurinn sýnir Dag Júnii.

Merk: Þegar Níuviknaföstu ingángur er rjett fundinn, þarf ecki ad villast um Páska og Hvítasunnu, en dæmin hefir eg sett til ad sýna adferdina, námsúsum til æfingar.

11.) Trinitatis eda heilagrar Þrenníngar Hátíd er ætíd Sunnu-

Dag-

daginn nærstann eptir Hvítasunnu, frá henni teljast Sunnudagar til Adventu, verda þeir fleirstir 27 en færstir 22; viljir þú nú rekna út hve margir verda múni, þá brúka þessa adferd: Tak daga lidna frá árs byrjun til Trinitatis Hátídar, drag þá frá dogum sama ársins vid nærstkomandi Jólaföstu, skipt leifunum med 7, tala sú, er kémur í qvótann, sýnir þér hve margir verdi Sunnudagar eptir Trinitatis. Til dæmis: 1786 kom Trinitatis Hátíd þann 11ta Júníi, en Adventa þann 3ja Decembr., dágar árs til hennar 336, þarfrá dragast dagar frá árs byrjun til Trinitatis, sem vóru 162, láta eptir

174,

174, þeim skipt með 7, gjöra 24, og svo margir vóru Sunnudagar eptir Trinitatis árið 1786.

12.) Öskudagurinn er hinn fyrsti Miðvikudagur í Sjöviknaföstu.

13.) Þyridagur innfellur Fimtudaginn næstann eptir Trinitatis Hátíð.

## b.) Óhræranlegar Hátíðir og Messur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Nýársdagur | ≈ | þann 1ta | Januarii. |
| Þrettándi | ≈ ≈ | — 6ta | —— |
| Knútsdagur | ≈ ≈ | — 7da | —— |
| Geisladagur | ≈ ≈ | — 13da | —— |

Páls≈

| | | | |
|---|---|---|---|
| Pálsmeßa | — | þann 25ta | Januarii |
| Kindilmeßa | — | 2ann | Februar. |
| Pétursmeßa | — | 22ann | —— |
| Matthiasarmeßa | — | 24da | —— |
| Gvöndardagur | — | 16da | Marz. |
| Maríu Bodunard. | — | 25ta | —— |
| Leonisdagur | — | 11ta | Aprilis. |
| Magnúsardagur | — | 16da | —— |
| 2gja Postulameßa | — | 1ta | Maji. |
| Kroßmeßa á Vori | — | 3ja | —— |
| Hallvardsmeßa | — | 15da | —— |
| Urbanusmeßa | — | 25ta | —— |
| Vitusmeßa | — | 15da | Júnii. |
| Bótólfs Vaka | — | 17da | —— |
| Jónsmeßa | — | 24da | —— |

Pét-

| | | |
|---|---|---|
| Pétrurs og Pálsmeßa — | 29da | Júnii. |
| Maríu Vitjan — | 2ann | Júlii. |
| Seljumannameßa — | 8da | —— |
| Þorláksmeßa — | 20ta | —— |
| Ólafsmeßa fyrri — | 29da | —— |
| Ólafsmeßa seinni — | 3ja | Augústi. |
| Maríumeßa fyrri — | 15da | —— |
| Höfuddagur Jóhañ. — | 29da | —— |
| Maríu Fædíng — | 8da | Septembr. |
| Kroßmeßa á Hauſt — | 14da | —— |
| Michaelismeßa — | 29da | —— |
| Fidesmeßa — | 6ta | Októbr. |
| Gallidagur — | 16da | —— |
| Sim. og Júdasar-m. — | 28da | —— |
| Allra heilagra meßa — | 1ta | Novembr. |

| | | |
|---|---|---|
| Allra Sálnameßa — | 2ann | Nóvembr. |
| Marteinsmeßa · — | 1ta | —— |
| Konrádsmeßa · — | 26ta | —— |
| Andreasarmeßa · — | 30ta | —— |
| Barbárumeßa · — | 4da | Decembr. |
| Mar. Getnadar-m. — | 8da | —— |
| Lúciumeßa · · — | 13da | —— |
| Thómasarmeßa · — | 21ta | —— |
| Þorláksmeßa · — | 23ja | —— |
| Kristsdagr eda Jól — | 25ta | —— |
| Stephánsdagur — | 26ta | —— |
| Jóhannesd.gur — | 27da | —— |
| Barnadagur · — | 28da | —— |

Merk: Þær 4 Imbru- eda Sælu-vikur innfalla árlega þannig: Sú 1ta heßi Midvikudag annann i Sjøviknaføstu. 2ur Midviku-

vikudag nærstann eptir Hvítasunnu. 3ja Midvikudag nærstann eptir Krossmessu á Haust, eda 14da Sept. 4da Midvikudag nærstann eptir Luciumessu, eda 13da Dec.

---

## III. Kapituli.

## Um þau íslendsku Midsárs-skipti og Mánada-tal.

Arinu skiptu Íslendíngar fyrrmeir í tvo Midsæri, eda Sumar og Vetur, og þeim tímaskiptum heldum vèr enn, og látum þau byrja á vissann vikudag; en þar vor íslendski árs-reikníngur eptir því lagi, ecki inniheldur meira enn 52 vikur, svo

 verd-

verdur þad einum degi styttra enn almennt Almanaks ár, og tveimur dögum styttra enn Hlaupár; af þessu flaut, ad takmörk mättu færast um hríng á Almanaks-árinu, ef þad ecki hefdi verid til ráds tekid, ad auka vid ár vort einni viku, þegar sá eini dagur, sem þad er styttra enn Almanaks-ár, hefir svo opt safnast til ad viku nemi, verdur þad annadhvert á 5 almennum árum og einu Hlaupári, eda 2ur almennum árum og 2ur Hlaupárum, sem hver um sig gjöra til ársauka 7 daga eda viku, verdur þad því ad mestu 5ta og 6ta hvert ár á víxl. Med því nú ad Sum-

ar

er er álitinn betri partur árs vors, er auki þeßi lagdur til Sumars, og verdur þad þá einni viku lengra enn ella. Vid Nyastýls reglur er þad fastsett: ad auka skuli vid Sumar, þegar G er Sunnudaga Bókstafur á almennum árum, og hinn sídari á Hlaupárum. Hér af sjest þá gloggt, ad Sumarauki fer ad Sunnudaga Bókstafa umbreytingum, og eru því Sumaraukar tvennslags, reglulegir og óreglulegir. Sá reglulegi Sumarauki verdur, sem fyrr er sagt, ætíd þegar G er Sunnudaga Bókstafur; hinn óreglulegi þegar auka verdur vid Sumar, þótt ekki

ſè G Sunnudaga Bókſtafur, veldur þvi Sunnudaga Bókſtafa umbreyting, ſem ecki er úti ſyrr enn að liðnum 28 árum. Lit ná á fylgjandi Töblu, ſem heſir inni að halda 28 ár, og alla umbreytíngu Sunnudaga Bókſtafa; tel 1ta ár og ſvo oſaneptir til Sumarauka, og muntú ſinna 6 ár, og í þeim eitt Hlaupár; þar frá til nærſta Sumarauka eru 5 ár, og í þeim 2 Hlaupár; þar frá til nærſta Sumarauka eru 6 ár, og í þeim eitt Hlaupár.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1 | F | | |
| 2 | E | | |
| 3 | D C | | |

Farðú nú til að telja: lát árið F gjöra 1 dag, árið E D 2,

| | | |
|---|---|---|
| 4 | B | |
| 5 | A | |
| 6 | G | Sumarauki |
| 7 | F E | |
| 8 | D | |
| 9 | C | |
| 10 | B | |
| 11 | A G | Sumarauki |
| 12 | F | |
| 13 | E | |
| 14 | D | |
| 15 | C B | |
| 16 | A | |

eru 3, árid C 1, eru 4, árid B 1, eru 5, árid A 1, eru 6, þá gjørir Hlaupárid G F 2, og nú eru komnir 8; en af því þad er ofmikid til viku, þá er þeßa Hlaupárs eini dagur lagdur til næztundanfarandi års A, og þar gjørdur óreglulegur Sumarauki, en hiñ C 4 dag-

| | | |
|---|---|---|
| 17 | G | Sumarauki |
| 18 | F | |
| 19 | E D | |
| 20 | C | |
| 21 | B | |
| 22 | A | Rímspillir |
| 23 | G F | |
| 24 | E | |
| 25 | D | |
| 26 | C | |
| 27 | B A | |
| 28 | G | Sumarauki |

dagurinn lagdur til nærstkomandi Sumarauka aptur.

Þeßi óreglulegi Sumarauki kallast: Sumarauka Rímspillir, og árid Varnadar-ár; er þad audskilid, ad hañ iñfellur 28da hvert ár, nema þau skóckn Aldamót komi á milli, þá 40ta árid. Eika hitt,

hitt: ad hann innfellur þegar A er Sunnudaga Bókstafur, en árid eptir Hlaupár, og Sunnudaga Bókstafir G F.

Sumarid byrjar ætíd á Fimtudag, en meiri ágreiníngur er um Vetrarkomu; þau elldri Rim láta Vetur koma á Laugardag, og er þad sanngjarnast; þvi þar ár vort skiptist i 12 þrítugnætta mánudi og 4 aukanætur umfram, og þessar leggjast til fyrra parts Sumars, svo inniheldur Sumarid ad því lági 6 þrítugnætta mánudi og 4 aukanætur, en Vetur einúngis 6 þollika. Skuli nú Vetur byrja á Föstudag — sem tídkanlegt hefir verid um

nockurn undanfarinn tíma — þá hefst hann á seinasta Dag. ens sídazta Sumar-mánadar, sem vyrdist ad vera hin hreinasta mótsøgn; læt eg hann því, í Rím-korni þeßu, koma á Laugardag, en læt hvørjum einum í sjálfs vald ad halda Vetrar komu á Føstudag, eda degi fyrri enn hér greinir.

Sumarid byrjar í fyrsta lagi þann 19da, en í seinazta lagi þann 25ta Apr.; hér settir Sunnudaga Bókstafir sýná þér komudag þeß:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| G | 19da Aprilis. | | A | 20ta Aprilis. | |
| B | 21ta | — | C | 22ann | — |
| D | 23ja | — | E | 24da | — |
| F | 25ta | — | | | |

Mán-

Mánada=tal Sumars:

1) Harpa kémur sama dag og Sumar.

2.) Skerpla, Eggtíd, Stekktíd, kémur á Laugardag, sama dag í Majó sem Harpa í Aprili.

3.) Sól= eda Sel=mánudur byrjar á Mánadag, degi fyrr í Júnió enn Skerpla í Majó. Ad honum endudum innsetjast þær 4ar Aukanætur.

4.) Heyannir byrja á Sunnudag, 3ur dögum seinna í Júlió enn Harpa í Aprili; med byrjun þeirra haldist Midtsumar.

5.) Tvímánudur kémur degi fyrr í Agú=

Augústs enn Heyannir í Júlíó, ætíd á Pridjudag.

6.) Gardlags-mánudur kémur degi fyrr í Septembri enn Tví-mánudur í Augústs, ætíd á Fimtudag.

Vetur kémur á Laugardag næztañ eptir þann 20ta Októbr. Eptirfylgjandi litil Tabla sýnir þér komu hans, þó med þeirri athygli, ad þú, á Varnadar-árum, takir hid seinna A í Sunnudaga Bókstafa rødinni.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| A | 21ta Októbr. | | B | 22añ Októbr. | |
| C | 23ja | — | D | 24da | — |
| E | 25ta | — | F | 26ta | — |
| G | 27da | — | A | 28da | — |

## Mánada-tal Vetrar:

1.) Gormánudur, kémur sama dag og Vetur.

2.) Frermánudur, kémur degi fyrr í Nóvembri enn Gormánudur í Októbri, og ætíd á Mánadag.

3.) Mörsugur, kémur sama dag í Decembri og Frermánudur í Nóvembri, samt ætíd á Midvikudag.

4.) Þorri, kémur degi fyrr í Janúarió enn Mörsugur í Decembri, og ætíd á Føstudag.

Merk: Sokum þess, ed Þorra byrjan takmarkast af Vetrar komu, og hann er sá fyrsti íslendsk-

ra

ra mánada í Almanaks-árinu; þá er verdt ad sýna komu hans eptir føstum reglum, og er þá fyrst ad merkja: ad hann verdur ad hafa óreglulega komu, eins og Vetur, á Varnadar-árum, verdur þad Hlaupárid G F eda nærsta ár eptir Sumarauka; kallast þetta: Þorra Rímspillir; á þeßum árum skaltú því ætíd taka hid seinna G.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| G | 19da Janúari. | | A | 20ta Janúari. | |
| B | 21ta | — | C | 22an | — |
| D | 23ja | — | E | 24da | — |
| F | 25ta | — | G | 26ta | — |

5.) Góe, kémur degi fyrri í Februário enn Þorri í Janúarió, og ætíd á Sunnudag.

Merk: Sídasti dagur Þorra og Góe, kallast Þræll þeirra.

6.) Ein-

6.) Einmánudur, kémar degi seinna, á almennum árum, en sama dag á Hlaupárum, í Martzió, sem Þorri í Janúarió, ætíd á Þridjudag.

Merk: Á Hlaupárum skal brúka fyrra Sunnudaga Bókstaf til Þorra-komu, en hinn sídara til Sumar- og Vetrar-komu.

Hinar tídir Búskapar-ársins eru:

1.) Fardagar, byrja med 7du Sumar-viku, og eru: Fimtudagur, Föstudagur, Laugardagur og Sunnudagur.

2.) Elda-skildagi, er þañ 10 Maji.

3.) Vinnufólks-skildagi, er þann 14da Maji.

4.) Elda-

4.) Eldadagur, þann 6ta Októbr.

## IV. Kapituli.

## Um Túnglaskipti.

Þær hér medfylgjandi 4 Tøblur*), þéna til ad finna Túnglaskipti, á þann hátt, er hér eptir skal med Dæmum kénnt verda.

Þad er vidtekid medal Stjørnu-spek-inga, ad byrja daginn á Hádegi, einnig tel-

*) Þared Toblum þeßum heilum ecki vard komid fyrir á þetta litla Format; svo eru þær, á lausu bladi, prentadar sier, sem hjer á ad innsetjast af Bókbindaranum.

# Ita Tabla,

## sem sýnir Túnglkomur í Janúarió, fyrir þau ár, er í henni standa.

| Ár. | Dag. | Tím. | Min. | Sek. | Dag. | Tím. | Min. | Sek. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1805 | 0 | 8 | 30 | 43 | 29 | 21 | 14 | 46 |
| 1824 | 1 | 1 | 1 | 47 | 30 | 13 | 45 | 50 |
| 1843 | 0 | 17 | 32 | 42 | 30 | 6 | 16 | 55 |
| 1862 | 0 | 10 | 3 | 57 | 29 | 22 | 48 | 0 |
| 1881 | 0 | 2 | 35 | 2 | 29 | 15 | 19 | 5 |
| 1900 | 1 | 19 | 6 | 6 | 31 | 7 | 50 | 9 |
| 1919 | 1 | 11 | 37 | 10 | 31 | 0 | 21 | 13 |
| 1938 | 1 | 4 | 8 | 14 | 30 | 16 | 52 | 17 |
| 1957 | 0 | 20 | 39 | 18 | 30 | 9 | 23 | 21 |
| 1976 | 1 | 13 | 10 | 24 | 31 | 1 | 54 | 27 |
| 1995 | 1 | 5 | 41 | 30 | 30 | 18 | 25 | 33 |
| 2014 | 0 | 22 | 12 | 34 | 30 | 10 | 56 | 36 |
| 2033 | 0 | 14 | 43 | 38 | 30 | 3 | 37 | 41 |
| 2052 | 1 | 7 | 14 | 42 | 30 | 19 | 58 | 45 |
| 2071 | 0 | 23 | 45 | 48 | 30 | 12 | 29 | 51 |
| 2090 | 0 | 16 | 16 | 52 | 30 | 5 | 0 | 55 |
| 2109 | 1 | 8 | 47 | 57 | 30 | 21 | 32 | 0 |
| 2128 | 2 | 1 | 19 | 0 | 31 | 14 | 3 | 3 |
| 2147 | 1 | 17 | 50 | 6 | 31 | 6 | 34 | 9 |

# Ur Tabla,

## sem iñiheldur mismun Túnglkomu í 19 Ár.

| Ár. | Dagar | Tím. | Mín. | Sek. |
|---|---|---|---|---|
| 1 | 10 | 15 | 11 | 26 |
| 2 | 21 | 6 | 22 | 51 |
| 3 | 31 | 21 | 34 | 17 |
| 4 | 42 | 12 | 45 | 43 |
| 5 | 53 | 3 | 57 | 9 |
| 6 | 63 | 19 | 8 | 35 |
| 7 | 74 | 10 | 20 | 1 |
| 8 | 85 | 1 | 21 | 26 |
| 9 | 95 | 16 | 42 | 52 |
| 10 | 106 | 7 | 54 | 18 |
| 11 | 116 | 23 | 5 | 44 |
| 12 | 127 | 14 | 17 | 10 |
| 13 | 138 | 5 | 28 | 36 |
| 14 | 148 | 20 | 40 | 2 |
| 15 | 159 | 11 | 51 | 28 |
| 16 | 170 | 3 | 2 | 54 |
| 17 | 180 | 18 | 14 | 20 |
| 18 | 191 | 9 | 25 | 46 |
| 19 | 202 | 0 | 37 | 12 |

# 3ja Tabla,

sem sýnir, hvörsu margir dagar, tímar, mínútur og sekúndur innihaldast í tilteknum Túngl-mánudum.

| Mánudur. | Dag. | Tím. | Mín. | Sek. |
|---|---|---|---|---|
| $\frac{1}{4}$ | 7 | 9 | 11 | 1 |
| $\frac{1}{2}$ | 14 | 18 | 22 | 2 |
| 1 | 29 | 12 | 44 | 3 |
| 2 | 59 | 1 | 28 | 6 |
| 3 | 88 | 14 | 12 | 8 |
| 4 | 118 | 2 | 56 | 11 |
| 5 | 147 | 15 | 40 | 14 |
| 6 | 177 | 4 | 24 | 17 |
| 7 | 206 | 17 | 8 | 20 |
| 8 | 236 | 5 | 52 | 23 |
| 9 | 265 | 18 | 36 | 25 |
| 10 | 295 | 7 | 20 | 28 |
| 11 | 324 | 20 | 4 | 31 |
| 12 | 354 | 8 | 48 | 34 |
| 13 | 383 | 21 | 32 | 37 |

Til blſ. 48.

# 4da Tabla,

ſem inniheldur daga árſins vid ſérhvors mánadar enda.

| Mánudir. | Dagar. |
|---|---|
| Janúarius | 31 |
| Febrúarius | 59 |
| Martius | 90 |
| Aprilis | 120 |
| Majus | 151 |
| Június | 181 |
| Július | 212 |
| Augúſtus | 243 |
| September | 273 |
| Október | 304 |
| November | 334 |
| December | 365 |

Merk: Á Hlaupárum ſkal, eptir Janúarium, reikna einum fleira fyrir Hlaupárs-daginn.

telja þeir kluckutíma áfram, frá 1 til 24. Séu nú þær, eptir þeßum Töblum, útreiknudu kluckustundir minni enn 12, skal reikna þær Eptirmiddags tíma þeß dags, sem út er reiknadur; en séu þær yfir 12, reiknast þær Fyrimiddags tímar ens næsta dags. Nú skaltú frá þeim útreiknudu tímum, draga 2 tíma, 6 mín., 12 sek., fyri midt Island, 1 tíma, 45 mín. fyri Austurland, og 2 tíma, 25 m. fyri Vesturland. Adferdin ad finna Túnglaskipti er þeßi:

1.) Finnst Nýtt Túngl eptir 1tu Töblu, í Januario, á þeim sárum] sem þar í standa.

2.) Finnst þad hin árin í Janúarió, á þann hátt sem eptirfylgir:

Skrifa upp, eptir 1tu Töblu, Janúarii fyrri Nýmána-komu árs þeß, sem nærst er fyrir ofan ár þitt; adgættú svo, hvorsu mörg ór séu lidin frá því til þíns árs; legg nú til þeß uppskrifada Janúarii Nýmána svo marga daga, tíma, mínútur og sekúndur, eptir 3ju Töblu, sem þurfa kann til þeß, ad þú dregid getir þá summu þar frá, er eptir 2ari Töblu mætti svara til ára mismunarins, þad sem eptir verdur, skaltú skerda um eins marga daga og Hlaupár vóru á milli ofanskrifadra ára, og ad endíngu: skaltú

draga

draga ádur umgétinn mismun, fyrir ýmsa stadi Islands, frá, þad sem eptir verdur, sýnir þér Túnglkomuna.

1ta Dæmi:

Nær mun hafa komid nýtt Túngl í Janúarió, árid 1813?

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | 1805 | od. 8 t. | 30 m. | 40 s. | 1ta Tab. |
| | 88 ⸗ | 14 ⸗ | 12 ⸗ | 8 ⸗ | 3ja Tab. |
| þar frá fyrir | 88 ⸗ | 22 ⸗ | 42 ⸗ | 48 ⸗ | |
| 8ta ár | 85 ⸗ | 1 ⸗ | 31 ⸗ | 28 ⸗ | 2ur Tab. |
| | 3 ⸗ | 21 ⸗ | 11 ⸗ | 20 ⸗ | þarfrá fyrir |
| 2 Hlaupár frá 1805 til 1813 | 2 ⸗ | | | | |
| láta eptir | 1 ⸗ | 21 ⸗ | 11 ⸗ | 20 ⸗ | þarfrá fyrir |
| Vestur Isl. | ⸗ ⸗ | 2 ⸗ | 25 ⸗ | ⸗ ⸗ | |
| | 1 ⸗ | 18 ⸗ | 46 ⸗ | 20 ⸗ | |

Þar fyrir kom nýtt Túngl þann 1ta Jan., kluck. 18, 46 min., 20 sek., eda þañ 2ann Jan. kl. 6, 46 m., 20 s. F. m.

2að Dæmi:

Nýtt Túngl í Januarió 1820.

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| 1805 | 0 | 8 | 30 | 43 |
| | 177 | 4 | 24 | 17 |
| | 177 | 12 | 55 | 0 |
| Þar frá fyri 15 ár | 159 | 11 | 51 | 30 |
| eru eptir | 18 | 1 | 3 | 30 |
| fyri 3 Hlaupár | 3 | — | — | — |
| eru eptir | 15 | 1 | 3 | 30 |

Þar

þar frá fyrir Vestur Island 2 Tím. 25 Min., sýna, ad nýtt Túngl kemi þar, þann 14da, kl. 22, 38 mín., 30 sek., eda þann 15da, kl. 10, 38 mín., 30 sek, F. m.

## Ad finna nýtt Túngl í hinum Mánudunum:

Finn fyrst nýtt Túngl í Janúarió, legg sídan þar til eins marga Túnglmánudi, eptir 3ju Teblu, og lidnir eru frá Janúarió, legg þá þessa tolu til samans, drag sídan, eptir 4du Teblu, daga lidna frá árs byrjun til þess mánadar, þad sem eptir er, sýnir dag mánadarins.

1ta Dæmi:

Mér er hugleikið að vita, hvenær nýtt Túngl hafi komið í Decembri 1805.

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| Jan. seinni Ný-máni | 29 ; | 18 ; | 49 ; | 46 ; |
| 11 Túngl mánuðir | 324 ; | 20 ; | 4 ; | 31 ; |
| gjøra | 354 ; | 14 ; | 54 ; | 17 ; |
| Þar frá | 334 ; | — ; | — ; | — ; |
| eru eptir | 20 ; | 14 ; | 54 ; | 17 ; |

sem sýnir: að nýtt Túngl hafi komið, þann 20ta, kl. 14, 54 mín., 17 sek., eða þann 21ta, kl. 2, 54 mín., 17 sek., F. m.

2að

2að Dæmi:

Jeg vil hyggja að, á hvorjum degi nýtt Túngl muni koma í Augústó, 1820.

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| Nýtt Túngl í Jan. | 14 = | 22 = | 38 = | 30 = |
| fyrir 7 Túngl-m. | 206 = | 17 = | 8 = | 20 = |
| gjöra | 221 = | 15 = | 46 = | 50 = |
| þarfrá fyri Júl.á hl.á. | 213 = | — = | — = | — = |
| verda eptir | 8 = | 15 = | 46 = | 50 = |

kémur því nýtt Túngl þann 9da, kl. 3, 46 min., 50 sek., Fyrimiddag.

Þegar þú vilt finna fullt Túngl, þá skalt þú leggja til eda taka frá nýu

Túngli mánaðarins, eptir ʒiu Tøblu, hálft Túngl, eins og nú skal sýnt verða.

1ta Dæmi:

Eg vil grennslast eptir Túngls-fyllíngu í Janúarió 1813.

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| Nýtt Túngl | 1 | 18 | 46 | 20 |
| hálft Túngl | 14 | 18 | 22 | 1 |
| | 16 | 13 | 8 | 21 |

Hér finn eg fullt Túngl þann 17da, kl. 1, 8 mín., 21 sek., Fyrimiddag.

2ad Dæmi:

Enn þá er mér forvitni á að finna Túngls-fyllingu í Janúarió 1820.

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| Nýtt Túngl | 14 | 22 | 38 | 30 |
| | 14 | 18 | 22 | 1 |
| | 29 | 17 | 0 | 31 |
| eda | 0 | 4 | 16 | 29 |

Hér er fullt Túngl bædi þann 30ta, kl. 5, 0 mín., 31 sek., F. m., enda þann 31ta December. kl. 4, 16 mín., 19 sek., E. m., því hér var enginn dagur, og vard því ad leggja þeßa 4 Tíma, 16 mín., 29 sek.,

 til

til ens fyrra mánadar, sem hér var December. 1819.

Viljir þú finna Qvarteraskipti, þá legg þú fjórda part úr Túngls-alldri til Ny-mána, og muntú fá eitt Qvarter;

Til Dæmis:

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| 1813, Jan. Nymáni | 1 | 18 | 46 | 20 |
| fjórdi partur Túngls | 7 | 9 | 11 | 1 |
| | 9 | 3 | 57 | 21 |

Fyrsta Qvarter þann 9da, kl. 3, 57 mín. 21 sek., Eptirmiddag.

Legg

Legg eins til Fyllingar, og muntú fá sídazta Qvarter;

Til Dæmis:

| | D. | T. | M. | S. |
|---|---|---|---|---|
| 1813, fullt T. i Jan. | 16 ; | 13 ; | 8 ; | 21 ; |
| | 7 ; | 9 ; | 11 - | 1 ; |
| | 23 ; | 22 ; | 19 ; | 22 ; |

Sídazta Qvarter þann 24da, kluck. 10, 19 mín., 22 sek., Fyrmiddag.

Merk: J einum Degi, eda Sólarhring, reiknast 24 kluckutímar, í hverjum kl. tíma 60 mínútur, og í hverri mínútu

60 sekúndur; ad þeßu verdur ad gæta vid samlagníngu og frádragníngu ofan-taldra Dæma. Sé svo, ad 29 dagar, 12 tímar, 44 mín., 3 sek., gèti lagst til eins Túnglsskiptis í mánudinum, án þeß ad sú útkomandi tala yfirstígi daga-tal mánadarins, er þad merki til, ad þau Túnglaskipti verda tvisvar í sama mánudi; þannig er ad mestu tvisvar nýtt Túngl í Janúarió á øllum þeim árum, er standa í 1tu Tøblu.

---

Tabla

# Tabla
## yfir Hlaupár, Sumarauka og Rímspillir á 19du Öld.

1804 Hlaupár, Sumarauki.
1808 Hlaupár.
1810 Sumarauki.
1812 Hlaupár.
1815 Sumarauki, Rímspillir.
1816 Hlaupár, Þorra Rímspillir.
1820 Hlaupár.
1821 Sumarauki.
1824 Hlaupár.
1827 Sumarauki.

1828 Hlaupár.
1832 Hlaupár, Sumarauki.
1836 Hlaupár.
1838 Sumarauki.
1840 Hlaupár.
1843 Sumarauki, Rímspillir.
1844 Hlaupár, Þorra Rímspillir.
1848 Hlaupár.
1849 Sumarauki.
1852 Hlaupár.
1855 Sumarauki.
1856 Hlaupár.
1860 Hlaupár, Sumarauki.
1864 Hlaupár.
1866 Sumarauki.

1868

1868 Hlaupár.
1871 Sumarauki, Rímspillir.
1872 Hlaupár, Þorra Rímspillir.
1876 Hlaupár.
1877 Sumarauki.
1880 Hlaupár.
1883 Sumarauki.
1884 Hlaupár.
1888 Hlaupár, Sumarauki.
1892 Hlaupár.
1894 Sumarauki.
1896 Hlaupár.
1900 Sumarauki.

Merk: Tabla þeßi er samin einkanlega þeim til þjenustu, er slitid hafa sínum firugu úngdóms árum,

árum, og hvorki hafa lyst nje tíma til ad leita ad serhvorju því, er í henni stendur, eptir þeim hjer ad framan, bls. 16 og 36—41, fyrirskrifudu reglum, áhrærandi Hlaupárin, reglulega Sumarauka og Sumarauka Rím-spillir, um hvorn opt hefir ordid ágreiníngur medal þeirra, sem ecki hafa numid Fíngraríms til hlýtar, og heldur ecki haft Leoríin ad stydjast vid. Hinir ýngri námfúsu Landar minir, handa hvorjum Rímkorn þetta er eginlega á prent útgefid, munu víst ecki telja eptir ser, ad ljá reglum mínum adgætid auga.



